[Þess íslendska evangeliska
smábókafélags rit Nr. 22.]

# Hin farsæla fátækt
## edur frásaga af þeirri fátæku og blindu Elinni,
útlagt úr engelsku af útgéfaranum.

Á einum litlum bæ, nálægt sjósídu, í svokalladri Lanca-sveit í Englandi, lifdi ein fátæk, holt og gömul qvenpersóna, hvörrar sparsemdar- og idnisfulli lífsframdráttur géfur eitt uppbyggiligt eptirdæmi ad sönnu öllum, en einkum þeim, sem lifa vesælu og audvirdiligu lífi í heiminum; og hennar kjærleiksríki, þacklátsemi og ofurgéfníng undir Guds vilja, má álítast eptirbreytnisverdugt fyrir mannesskjur, hvörs stands sem eru.

Þessi vesæla sképna, sem deydi þann 1ta December árid 1808, var blind frá sínu 6ta aldurs ári, og hafdi hún þó allt af unnid sjálf fyrir uppheldi sínu ífrá úngdómsárum, án þess sveitin edur sóknin þyrfti henni nockud til ad leggja. Það litla hreisi, í hvörju hún lifdi átti hún sjálf, og þar ad auki var hún eigandi ad hérum 60 ríkisdala virdi i peníngum, af hvörra rentum hún afdi dálitla stod, hvør þó ei var meiri enn svo,

að það ecki nægði henni til að kaupa sér eldivið, sem hún viðþurfti; svo í rauninni var það vinna hennar sjálfrar, sem heldt henni við lífið. Handverk hennar var að spinna silki. Með því að erfiða stadfastliga frá mánudeigi til laugardags, að undanteknum þeim fáu stundum, sem hún þurfti til að matreiða handa sér, gat hún þó ecki unnið sér meira inn, enn svosem 1 ríkisorts virði á hvörri viku; en á þessu viðheldt hún þó lífi sínu. Tveggja ríkisorta virði um árið, var allt sem hún kostaði til að kaupa hveitimjöl. Brauð, búið til úr haframjöli og vatni, var það mesta, sem hún brúkaði sér til viðurlífis. Af þessu brauði tilbjó hún þunnar kökur, og bakaði þær á hellum yfir eldi; hvað þessi vesæla blinda manneskja gat gjördt, án annara tilhjálpar; og hún tilbjó alltíð í einu svo mikið, sem henni nægt gat til 4 vikna. Svo sem 1 skildíngs virði af blárri mjólk var hennar morgunskattur, enn jarðepli vóru hennar almenniliga miðdagsmáltíð. Sumir af nágrönnum hennar gáfu henni lítið eitt af undanrennuíngu, og af henni bjó hún til vellíngu, í hvörja hún lét til þycktar hafrabrauð, og þetta var hennar vanaligi qvöldmatur. Tvo lóð af thegrasi endti hún sér í 6 vikur, og sjáldan leifði hún sér að smacka það, nema þegar hún þurfti að því. Eingan annan mat keypti hún nockurntíma, en þetta, að undanteknu einhvörju lítilræði til hátíðabrigðis um jólin.

Um 19 ára tíma hafdi þessi blinda Elin á hendi alla umsorgun einnar veikrar konuskepnu, sem enn nú aumri var, enn sjálf hún; því hún hafdi þvílíkt sjúkdóms tilfelli, sem fyrirmunudi henni ad géta hugsad um sig og þjónad sjálfri sér. Þetta var þá eitt mjøg mædusamt verk fyrir þá vesælu Elinni, því konuauminginn, sem hún átti ad þjóna, var bædi ofurveik af sér, og þartil mjøg styrd í gédinu; hérum 10 ríkisdalir í silfri vóru lagdir med henni árliga af sókninni, og eingiun madur hefdi gétad undirhaldid hana fyrir svo litla medgjøf, nema sú blinda Elin, sem sagdi: „ad Gud almáttugur hjálpadi sér til þess."

Í fyrstu þegar Elin hafdi tekist á hendur mædu þessa, ad hafa fyrir þessari veiku konuskepnu, gjørdist hún mikid áhyggjufull út af því, ef hún, fyrir þá skuld, gjæti ei komist til messunnar á sunnudaga; því henni fanst, sem hún aldeilis ecki lifad gjæti, ef hún feingi ecki i kyrkjuna ad koma. En svosem hin vesæla konukind lá um þann tíma mikid í rúminu, þá var þad Elinnar máti, ad loka dyrum á húsi sínu, og, ámedan saungurinn fyrir predikun yfirstód, ad fara út til kyrkjunnar, hvør ed lá mikid nálægt koti hennar, þar hún gjørdi sér von um ad sú veika mundi liggja í kyrdum ámedan. Enda skédi þad ecki i þessi heil 19 ár, ad hún nockrusinni hreifdi á sér medan hún var i kyrkjunni, nema alls einusinni. Þegar Elin var adspurd, hvørt hún aldrei óþolinmód yrdi yfir ad

hafa fyrir þessari aumu manneskju, svaradi hún: «ad vísu væri hún svo aumliga ásigkomin, óþæg í lundinni og fyrirhafnarmikil, ad þad hefdi nóg verid til ad þreyta hvørn sem helst þad hefdi uppá sig tekid, en, hún sagdi, ad Gud almáttugur hjálpadi sér fram úr því." Þad sídarsta árid, sem skepna þessi tórdi, var hún svo aum, ad Elin hlaut ad mata hana. Um þad skeid, gat hún svo slakliga verid vid vinnu sína (á hvørri hún þó lifdi), ad hún þeinkti hún aldeilis mundi gefast upp ad sorga fyrir lífi sínu, þar hún þurfti ad ad gánga svo nærri sér, ad hún vard ad eta og spinna undir eins. Eingu ad sídur sagdist hún þó aldrei hafa bedid Gud, ad taka þennan þúnga ómaga í burtu, til ad létta honum á sér, heldur ad eins ad hann vildi gefa sér þolgjædi og krapta til ad hafa fyrir henni, og um þad sama bænheyrdi hann hana.

Eptir þad hún var nú dáin, lifdi Elin 25 ár ein út af fyrir sig, og þegar hún var adspurd, hvørt henni leiddist ecki sú einvera, svaradi hún: «Þad er mikid ágjætur hlutur ad vera ein út af sér; menn seigja mér, ad eg ætti ad hafa einhvørn mér til skémtunar; en þó slíkur væri aldrei svo þægiligur, er manni þó betra, ad vera ein sér út af." Þessi fátæka manneskja bad aldrei nockurn neins hlutar, og jafnvel ecki sína nágranna, af því, sagdi hún: «ad Gud veit betur hvørs eg vid þarf, enn sjálf eg, og hann sendir

Þessvegna alltíd til mín, þad eg hefi þörf fyrir.»

Þegar hún átti nú hværki braud né jardepli til nautnar, gjørdi hún sér braud af tómum lauk, litlum pipar og salti, og bad svo til Guds, ad sér gjæti smackast þetta vel, og þad reyndist svo. Þegar hana vantadi eittsinn einn hálfan silfur smápeníng, og vissi ecki hværnig hún gjæti feingid hann, sagdi hún: «Gud mun senda mér hann.» «Einusinni átti hún ecki nema 4 silfur smápenínga i eigu sinni; en rock-hjól hennar þurfti adgjørdar, hvør ed kosta átti þriá hálfa silfurpenínga; en þriá heila þesshættar þurfti hún til ad borga þeirri fátæku konu, sem færdi henni mótorf til eldividar. En hværnig hún ætti nú ad fá adgjørdina á hjóli sínu, vissi hún ecki, því hún átti ecki nema 1 heilan silfurpeníng þar uppi, en vantadi hálfan. Hún lét þó eckert á skorti sínum béra, né bad nockurn mann neins hlutar. En kona sú, hværri hún borgad hafdi færslu á eldividnum færdi henni aptur einn hálfan silfurpeníng, aldrei þessu væn, svo þad var þad einasta sinn, er hún svo gjørdt hafdi, jafnvel þó hún hefdi í 16 ár alls færdt henni eldivid. Frá þessu sagdi Elin, svo sem einu merki til gjædsku Guds forsjónar vid sig, í því ad bæta úr øllum sínum skorti. Aldrei heyrdist neitt møgl edur umqvørtun af vørum hennar; og hún sagdi «ad sér alltíd lidi vel, medan hún gjæti komist til kyrkjunnar, verid skuldlaus, og haft eitthvad sér til næríngar.»

Sinn besta klædnad hafdi hún keypt fyrir 50 árum, og hann leit enn nú vel út, var nettur og hreinn, og þegar hún var í hann komin, var útlit hennar rétt sómasamligt. En hún brúkadi hann heldur aldrei nema þegar hún var til sacramentis og á hátída dögum.

Ydugliga skémti þessi blinda Elin sér, þegar hún var ad spinna, med því ad syngja sálma; hún sagdi og: «fyrir 30 árum sídan keypti eg, fyrir meir enn fimm ríkisorta virdi, ad læra ad syngja sálma, og hefi eg aldrei sídan ydrast eptir þeim kostnadi." Sá sálmur, hvers upphaf þetta er: «hyrdir míns lífs er lífsins Gud" styrkti hjarta hennar opt í hennar sjónleysis myrkri; og nær hún gat feingid af einhverjum ad lesa Guds ord hjá sér, þóttist hún ecki hafa stort á neinni ánægju; hún mundi og mikid úr því sem hún lesid heyrdi. Þegar einhver óeptirvænt gjördi henni nockud gott, hvad lítid sem þad var, þá sýndist eins og hún ecki vissi sjálf, hvörnig hún ætti ad vera svo þacklát í stadinn, sem hún vildi; «eg gét ecki þackad, sagdi hún, svovel sem mér ber, en eg vil gjöra þad svo vel sem eg gét; eg má þacka Gudi, ad hann sendir mér þvílíkt fólk; því ef hann hefdi ecki ydur sendt, mundud þér víst ecki komid hafa." Hún sagdist ecki annad géta, en bedid fyrir velgjördamönnum sínum, hvad hún og jafnan gjördi, bidjandi ad Gud vildi géfa þeim alla góda og þarfliga hluti í þessum heimi, en eilíst líf í

þeim eptirkomanda. Þegar ein persóna eittsinn, sem komid hafdi til hennar, ad veita henni einhvörja velgjörd, qvaddi hana og óskadi henni heilsu, svaradi hún: „æ já! annadhvört heilsu edur himnaríki!"

Á þennan hátt, sem sagt er, framlidu nú lífstundir þeirrar vesælíngs gömlu Elinnar, án þess jafnvel ad njóta margra þeirra styrktar- og endurnæríngar-medala fyrir líf þetta, sem ödrum ómissandi þykja. Vonir þær og eptirvæntíngar sem margir mótlættir í lífi þessu gjöra sér og hugbreysta sig vid, ad kjör sín, nefnilliga, kunni til batnadar ad breytast, höfdu eingan stad í hennar kríngumstædum. Gamansamt bros og vingjarnligt tillit annara gat aldrei endurnært hennar hjarta, og ecki heldur kjærleiksfullt ávarp medlídandi skyldmenna ánægt hennar eyra; já, ecki einusinni sú von, ad einn bjartur morgun í lífi þessu mundi nockrusinni stytta henni stundir, í hennar hátídligu einverusemi. En eingu ad sídur var hún æfinliga hughraust, ánægd, glöd og full þacklætis fyrir Gudi, fyrir þad hann hefdi þó látid sig vera til og lifa í heiminum; og þegar augnamid hans med ad láta sig lifa hér á jördunni uppfylt væri, varpadi hún sér ad öllu leiti uppá Guds miskunsemi, og vonadi stödugliga, ad hann, fyrir forþénustu sakir síns frelsara Jesú Christs, mundi géfa sier eilífa gledi í hinu betra lífi.

## Heimfærsla.

1) Fáar munu vîst manneskjur þær, af þeim sem lesa edur heyra historíu þessa, hvørra fátækt og eymdakjør eins stramg og þúng sieu, sem þessarar blindu Elinnar. O! ad slíkir vildu þó hugleida, ad þeir hafa nú heyrot af einni manneskju (og augu þess alskigna Guds sjá þó margar fleiri) hvørrar kjør mikiu lakari voru, enn sjálfra þeirra; en á hvørri þó eingu ad sídur sjá mátti, hvílíka stakliga umhyggju gjædska Guds fyrir henni bar.

2) Er verdugt ad athuga þad, af hvørjum ástædum þad flaut, ad sú vesæla blinda Elin, var, midt í sínum eymdakjørum, svo ánægd og farsæl. Þetta sýndi hún ljósliga, þegar hún sagdi: «Gud þeckir lángtum betur, en eg sjálf, hvad mjer fyrir bestu er, og hann sendir mjer æfinliga, þad sem til minnar naudþurftar þjenar." Þad er ómøguligt ad ein manneskja gjeti óluckulig edur óþackl*t ordid, nær þvílíkur einn þánkamáti, sem þessi, uppfyllt hefur hennar huga og endurnært hennar hjarta. Og hvør sem ecki vottar þessa undirgjefnis og audmjúktar hollustu alveldi Guds, og tekur ei til athuga þá stadføstu umsorgun og kjærleika hans forsjónar, er lítlu betri enn ein Guds afneitari; og hvørja heldst ímindun, sem hann gjørir sjer um sjálfan sig; þá er hann í rauninni þvílíkur, «sem lifir án Guds i verøldunni." En, ó hvørsu skjelfiligt og háskasallt er ástand þvílíks eins mans! Bíd, ó manneskja! ad þú frá því frelsast mættir!

3) Hvílíkan góðan vitnisburð mundi ei christinndómurinn ødlast, í staðinn þeirra lastmæla sem annars fyrir sakleysi eru á hann kostuð, ef játendur hans vildu trúa, og í verkinu ásannast láta innihald orða þeirra, sem Paulus í pistl. til Tit. 3, 8. framsetur, seigjandi: «að þeir sem trúa á Guð, skulu finnast kostgjæfnir til góðra verka." Þannig ættu allir christnir að breyta, til eins vitnisburðar um að þeirra trú sje sannarlig, og til eins innsiglis, uppá þeirra ósſkabarnarjett til eilífs lífs. Og þetta sama gjørði sú vesæla Elín á merkiligasta hátt. Hún ecki einasta treysti Guði, að hann uppfylla mundi allan sinn skort, já trúði því þegar hún var stødd í mestu þrengíngum, að Guð mundi senda sjer einhvørja kjærleiksfulla manneskju til að endurnæra sig, heldur var hún þar að auki iðjusøm, sparneytin, hófsøm, siðsøm og þacklát. Hún neytti allra þeirra meðala, sem í hennar valdi stóðu, svo lítil og ljettvæg sem þaug sýndust vera, sjer til uppheldis og endurnæríngar; en allt fyrir það bað hún þó Guð hjartanliga, og setti sína von til hans, um að hann blessa vildi iðjulag sitt og viðleitni. — Kjæri lesari! far þú og gjør slíkt hið sama, og minstú þess, hvað sá vísi kóngur Salómon sagði: «betra er lítið með ótta Drottins, enn mikil auðæfi með órósemi" (Orðsqv. 15, 16.)

4) Minstu þess, að eckert utan náð Guðs, gjørði þá vesælu Elínni svo ánægða, svo glað-

vera, svo idjusama, svo góðvilljaða og svo far-sæla, sem sagt er frá hún verið hafi. «Fyrir náð Guðs (sagði sá stóri postuli Pauli) er eg það eg er", og það var sú sama náð, sem verkaði svo mikið gott hjá þeirri vesælu manneskju, í því auðvirðiliga og fátæktarfulla standi, sem forsjón Guðs hana sett hafði. O, hvörsu hörmuligt er stand fátæktar og mótlætis, þegar Guðs náð vantar; þá fylgir því æfinliga mögl, óþakklæti, freistíngar til sinnuleysis og óærligheita, og jafnvel til örvæntíngar um Guðs gjæðsku! O hvörsu aumkunarligt og óttaligt er þvílíkt eitt ástand! þar finst hvörki endurnæring ne von fyrir tíma ne eilífð! Aldeilis gagnstædt þessu var ástigkomulag og breytni þeirrar vesælu og blindu Elinnar. O, hvörsu hjartanliga ánægð og glöð í Guði var hún, þegar hún yfir einskildíngs virði mjólkur til morgunskatts, og yfir litlum skjerf af hafur-braudi til middagsmáltíðar, sat og saung, eptir Davíðs munni, á þennan hátt:

Hyrdir míns lífs er lífsins Guð, líða kan eg því einga nauð; í friófgum haga mig fædir hann, hvar fegursti straumur lífsins rann.

Ugledja vill hann öndu mín, og henni snúa' af náð til sín; svo réttlætis götu gjeti' án stans geingið, til dýrðar nafni hans.

Já þó eg reiki' um daudans dal, dauðinn mig ecki hræda skal; þinn vöndur og stafur styrkja mig, stadfastan hjá mjer reyni' eg þig.

Minna síandmanna augsýn í, eitt mjer tilreiddir matbord því; höfud mitt smurdir helgri saft — hjartad uppfylltir gledi og krapt.

Fylgt hefur mjer um mína tíd miskunsemd þín og gjæskan blíd, svo þínu húsi eg mun í eilífan hafa búslad frí.

5) Í sídasta máta ber ad athuga þad, ad þó Elín svo fátæk væri af líkamligum munum, «var hún þó rík í trúnni, og erfíngi þess ríkis, sem Gud fyrirheitid hefur, þeim sem hann elska" (Jak. 2, 5.) Þad var umhugsunarverdt andsvar, sem hún gaf þeirri persónu, sem óskadi henni heilsu: «æ annadhvört heilsu edur himnaríki!" Þad er svo sem hún skyldi sagt hafa: «Eg vona og bid, minn himneska fadur! um heilbrigdi líkamans, til þess eg gjeti krapta haft, ad vinna mitt dagliga verk og gjeti svo sjálf þjónad fyrir mínu lífs uppheldi. Eg óska mjer heilsunar til þess eg gjeti sókt Guds hús, svo eg fái ad heyra hans ord og syngja hönum lof, og ad eg vera meigi í hóp þess fólks, sem vegsamar hans allraheilagasta nafn. En þóknist Gudi ad leggja á mig sjúkdóm, þá er ástand mitt svo vesælt og vanburda, ad eg gjet þá eckert gagn gjört í veröldina, né haft med hana ad sýsla, og óska mjer þá þessvegna ad komast í himnaríki. Eg veit líka vel, hvad þad er, sem eg óska mjer: því himnaríki er stadur sá, hvar ad er hvíld, heilagleiki og farsæld. Eg þecki þann grundvöll á hvör-

jum eg byggi mína von, hann er þeßi: 'Svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf út sinn eingetinn son, til þess ad allir, sem á hann trúa, ecki skuli fortapast, heldur hafa eilíft líf' (Joh. 3, 16.) Fyrir náð Guds hifi eg á soninn trúad. Eg hefi fundid 'endurlausnina í hans blódi, sem er fyrirgjefníng syndannna eptir ríkdómi hans nádar.' Eg hefi falid sálu mína í hans hendur, vegna þess 'hann elskadi mig og gaf sig sjálfan út fyrir mig.' Eg hefi gjetad elskad hann, eptir minnar trúar mælíngu, og hlýdt hönum af öllu mínu hjarta. Eg treysti því audmjúkliga, ad eg hafi feingid ad reyna 'nád Drottins vors Jesú Christs, kjærleika Guds og sameiníngu heilags anda' (2 Cor. 13, 14.) Eg er ecki söst vid þetta jardneska líf; gvídi fyrir daudanum er frá mjer burturhrindur; mig lángar eptir ad sjá minn endurlausnara, og þessvegna vona eg eptir himnaríki."

O, þú minn lesari! í hvorskonar lífsins kjörum sem þú staddur ert, bid Gud af öllu hjarta, ad þú öðlast meigir þessa sömu blessudu reynslu; svo ad "hvört heldur þú lifir, ad þú meigir þá lifa Drottni; ellegar ef þú deyr, ad þú meigir þá deya Drottni. Svo hvört þú lifir edur þú deyr, ad þú meigir þá vera Drottins" (Rom. 14, 8.) Þess óska eg þjer af öllu hjarta vegna Jesú forþjenustu!

---

1. Sælir eru audliga voladir, því ad þeirra er himnariki.

Mannlig náttúra mjøg er spillt", mínd Guds og dygdum rúin", syndanna eitri øllu ppfyllt", øll hreint frá Gudi snúin"; skynsemin blindud", viljinn verst verkin gløtunar adbyllest"; daudans er dómur búinn.

Sæll er sá þeckir þessa naud", og þjáníng' af henni lídur", voladur girnist andar aud", ad Jesú fótum skrídur"; bidur um náð í blódi hans", bidur um anda sannleikans", med ydrunar þeli þídu.

Himneskan ríkdóm hreppir sá", og helgunar náð margfalda"; midt í volædi hann audlegd á", æ þeirri sær ad halda." Hann þegar lokslns hjedan fer", himneska dýrd og sælu' uppskjer", já uppskjer um aldir alda.

2. Sælir eru þeir sem harma, því þeir skulu huggadir verda.

Margt þó í verøld meigi her" manni til ángurs verda", bølid samt þvílíkt eckert er", eins sem kann lucku skjerda" sem hin medfædda synda þrá" sífeldt er stríðir hjartad á"; svoddan má sorgir herda.

Sæll er sá grætur syndirnar", sem hann mót Drottni fremur", ydrandi, hreint med hugarfar", hjartans audmýkt sjer temur"; holdligrar fordast gledi glis", þó gángi her manna lofs á mis", Gud vid hann sáttir semur.

Skortir ei andans huggun hann" heims þá gladi værdir bresta"; af fridþægíng' Jesú finna kann"

fögnud hinn stærsta og besta"; midt í sorgum hans gledi grær" Guds nádar ríkdóm smackad fær" sídar þó sælu mesta.

3. Sælir eru hógværir, því þeir munu jardríkid ödlast.

Hjartad manns stolt og strídlyndt er", stíssinni þess eibugast"; eingum vægir, en sjálfu sér" sídst þó, ef vel athugast." Hógværd og mildi mesti prís" hjá mönnum Gudi jafnt er vís" sé hjartad sanndygdugast.

Hógværra prísar Herrann lán" högværdar munstrid ædsta"; lítt mun þeim hneckja lucku rán" luckan þó bregdist nærsta." Kjærleikur er sín eigin laun", á því mun sídar skjerast raun", nær ödlast hann æru stærsta.

Á því rídur þó allra heldst" af trú sje dygdin sprottin" himnesk þá umbun henni velst" ef helgunar sýnir vottinn." Sæll er sá elur svoddan rót" í sínu hjarta med dygdar hót!" Veit mér þad, dýri Drottinn!

4. Sælir eru þeir sem húngra og þyrsta eptir réttlætinu, því þeir munu saddir verda.

Réttlæti mannligt ógildt er" álíkt og saurugt klædi; ónýtir þjónar erum vér" allt þó í reglu stædi." Hvad þá, hjá nockrum fyrst ei finst" frómleikans rótin allra minst?" Guds má því brenna brædi.

En ef réttlætid er oss kjært", ef oss sárt til þess lángar"; allt verdur hjartad endurnært", ef sálin mænir þángad", hvar ed réttlæti fullgildt fæst" fyrir Gudi sem dugir hærst", hvoss þetta fær hún fángad.

Þvílíkt réttlæti eckert er" annad enn Jesú dýra" fridþægíng sem oss framreider" fyrir Guds andann

hýra." Sed oss, Herra, med svoddan náð" sælunnar veit oss eignarráð!" Eilífð það skal útskýra.

5. Sælir eru miskunsamir, því þeir munu miskun hljóta.

Verið sem faðir ydar er" af hjarta miskunsamir! Það Jesú boðorð þeckjum vér" að þeirri dygð gjörumst ramir"; í eingu því líkjast meir einn má" maður föðurnum himnum á." Sæll er sá sær það framið!

Miskun oss tjeði mestu hann" minst þegar væntast kunni"; til vor í Christo veit avann" vatni frá gæðsku brunni"; allt eins kjærleikans eigum vér" útbýta straumum frá oss hér" verki medur sem munni.

Gæsku miskunar géðið þitt", góða Jesú! þess beiði" uppfylla hjartað mætti mitt" svo miskun eg ödrum greiði." Mjer er þá víst að miskun þín" í meðaumkun lísur hýrt til mín"; eg óttast þá ei Guðs reiði.

6. Sælir eru hreinhjartaðir, því þeir munu Guð sjá.

Hreint skapa, Drottinn! hjarta' í mjer" þó hafi' eg þitt lögmál brotið"; annars fæ eg ei þóknast þér" né þinnar miskunar notið." Í augliti þínu einginn má" óhreinn standast, né þína fá" dýrðar sjón hærstu hlotið.

Eckert mig hreinsað annað fær", eckert þjer vel svo líki" enn sonar þíns dauða dreirinn skjær", dóm þinn er strángan mýkir"; víss er eg þá að verð eg hreinn" og verða mun loksins með þeim einn", er þig sjá í þínu ríki.

Þessvegna, Jesú! þig umbið" þitt láttu blóðið rauða", hreinsa mitt hjarta' og hugskotið" með hóp þinna kjæru sauða"; gét eg þá, Herra! þjónað þér" þveginn í anda, og vorðið hér" sæll midt í mínum dauða.

7. Sælir eru þeir sem fridinn semja, Því þeir munu Guds børn kalladir verda.

Fridurinn øllu fyrir er", fridur vid Gud á hædum; fridinn þeir allir efla her", sem orda Guds hlýda rædum"; en þó frid þann sem fylgir stríd" vid fjendur sannleiks og glæpa níd"; já fridinn midt í mædum.

Sælir eru þeir semja frid" med sjálfum Gudi og mønnum" nær þeim snúa frá synda síd" og samvitsku fridar bønnum"; fridurinn þar af fagur rís", sem fridarins Gud af mønnum kýs", runninn frá rótum sønnum.

Gjef mjer, Jesú! þinn góda frid" sem gjetur ei verøld ljened" þá hef' eg allt sem þarf hér vid" þá fær øll syndin rjenad"; barn Guds þá verd og bródir þinn", blessadi Gud og Drottinn minn!" þá græta' ei þrautir skjenar.

8. Sælir eru þeir sem fyrir rèttlætisins sakir ofsóktir verda, Því ad þeirra er himnaríki.

Ljósid aldrei vid myrkur má" í máta neinn samþeinast"; illir þá gódu einatt þjá" ei kann sú vondska leynast." Cain ofsókti Abel fyrst", eins hefur leingi vidgeingist"; leingst mun þad líka reynast.

Sælir eru þeir sæta fá" svoddan, rettlætis vegna; Gud fyrir sína þeckir þá" þó naudir ljdi megnar"; á himnum þeir eiga vísa vist" vegliga, fyrir Jesúm Christ" sem hans þolíyndir þegnar.

Eg tel þad, Jesú! æru mín" á medan lifi á jørdu" ofsóktur vera vegna þín" af vantrúar sonum hørdu; auktú mjer krapt í þrautum þeim" þar eptir loks í betra heim" sál mína sæla gjørdu!

---

Kaupmannahøfn 1820.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.